Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

38. tölublað | Þriðjudaginn 1. nóvember | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



# BSRB: Fellum samningana

Fyrsta verkfalli opinberra starfsmanna lauk þriðjudagin 25. okt. s.l. og hafði þá staðið í tvær vikur. Stjórn og samninganefnd BSRB skrifaði þá undir nýjan kjarasamning með fyrirvara um samþykki félaga í allsherjaratkvæðagreiðslu og frestaði verkfallinu fram til kl. 24 þann 15. nóv. n.k. Þessir samningar eru í stuttu máli alls ófullnægjandi fyrir ríkisstarfsmenn, þar sem þar er í veigamiklum atriðum vikið frá kröfum okkar.

Engin verkfallsheimild á tímabilinu.

Þar ber fyrst að nefna að í samningunum er ekkert ákvæði um endurskoðun, með verkfallsrétti á samningstímabilinu. Þetta ákvæði var ein af þremur meginkröfunum sem opinberir starfsmenn fylktu sér um í þessari baráttu og sú mikilvægasta. Tregða ríkisvaldsins til að veita ríkisstarfsmönnum þennan rétt sem aðildarfélög ASÍ hafa inni í sínum samningum bendir eindregið til þess að ríkisvaldið muni grípa til einhverra slíkra aðgerða eins og skerðingar eða afnáms vísitölu á tímabilinu. Þeim mun mikilvægari er verkfallsrétturinn fyrir opinbera starfsmenn. Þær kjarabætur sem samið hefur verið um verða fljótar að eyðast upp í því verðbólgubáli sem nú geysar, ef hætt verður að greiða vísitölubætur á laun. Ákvæði sem er í samningnum um að ef röskun verði á umsaminni vísitölutryggingu launa frá því sem samningurinn gerir ráð fyrir geti hvor aðili um sig krafist endurskoðunar á kaupliðum samningsins er á engan hátt jafngilt endurskoðunarrétti með verkfallsheimild eins og krafan stóð um. Það að ekki skulið gengið að þessari kröfu gerir það að verkum að ríkisstarfsmenn geta ekki samþykkt þennan samning.

Stéttasvikarar í forystuliðinu.

Fjöldi opinberra starfsmanna sem sótti fundi í félögum sínum á meðan á verkfallinu stóð komst fljótlega að því að innan samninganefndar BSRB ríkti engin eining hvorki um framkvæmd samningaviðræðnanna né beitingu verkfallsvopnsins. Það kom í ljós að það var ekki aðeins forystuliðið í starfsmannafélagi Reykjavíkurborgar sem átti þá ósk heitasta að knýja dyra hjá yfirboðurun og þrýsta hendur þeirra til að biðja velvirðingar á öllum óþægindunum. Nei - slíka menn var víðar að finna og þá einkum í forystu einstakra félaga. Engir gengu þó jafn langt í því að hvetja til uppgjafar og forysta landsambands framhaldsskólakennara (LSFK) Áður en verkfall skall á hafði þessi stjórn undir forystu formannsins Ólafs S. Ólafssonar talið viturlegast að ganga orðalaust að 7,5% launahækkuninni sem BHM þáði úr hendi ráðherrans og láta þar við sitja. Þegar síðan St.Rv. undirritaði samningana vildu þeir ólmir gera hið sama. Verkfallsréttarlögin takmarka hins vegar svo mjög frelsi einstakra félaga (annarra en bæjarstarfsmanna) að þau geta ekki gengið til samninga nema með heildarsamtökunum. Þannig urðu nú, þvert ofan í vilja laganna, þröng ákvæði þeirra óvænt til að styrkja bandalagið þegar uppgjafar- og undansláttumenn vildu svíkja. Í reiði sinni yfir að geta ekki tekið við hlutverki Þórhalls Halldórssonar og félaga afhjúpuðu þessir stéttsvikarar sig algjörlega fyrir sínum umbjóðendum. Þannig hvöttu þeir til þess að tillaga um að staðið yrði fast á kröfunni um endurskoðunarréttinn yrði felld, og tóku undir þá skoðun fulltrúa ríkisvaldsins að slíka kröfu væri ekki hægt að samþykkja

Framhald á síðu 2.



Útifundur BSRB á Lækjartorgi 15. okt.

# Um hvað er tekist á innan verkalýðshreyfingarinnar?

Hver eru þau mál sem félagar KFÍ takast á um við núverandi forystumenn verkalýðshreyfingarinnar? Í hagsmunabaráttunni er það krafan um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku og gjörbreyting á starfsemi verkalýðshreyfingarinnar í þá veru að fjöldinn taki virkan þátt í baráttunni. Í pólitísku baráttunni leggjum við áherslu á að afhjúpa stéttasamvinnustefnu verkalýðsforingja við borgarana og sósíalíska uppfræðslu.

Þrátt fyrir að síðustu ASÍ þing hafi samþykkt þá ályktun að koma á raunverulegum 8 stunda vinnudegi, er fátt sem bendir til þess að núverandi forysta hreyfingarinnar vilji bera kröfuna fram til sigurs. Hér um árið var það samtakamáttur verkamanna á stærstu vinnustöðunum eins og t.d. hjá Eimskip, sem varð til þess að vinnuvikan í dagvinnu var stytt úr 44 stundum í 40.



Það var sterk samstaða verkamannanna sem afnam dagvinnuna á laugardögum, slíka samstöðu þurfum við að mynda aftur til að tryggja lífvænleg laun fyrir 40 stundirnar. Saga verkalýðshreyfingarinnar kennir okkur að án baráttu náum við engu fram, og ef við leggjum ekki út í baráttuna verður ekki um neina ávinninga að ræða. Það er kominn tími til að afnema vinnuþrældóminn en til þess að það megi takast verður að koma til ný forysta í verkalýðshreyfingunni, baráttumenn í sterkum tengslum við verkafólk vinnustaðanna. Innan verkamannafélagsins Dagsbrúnar hafa fjölmargir verkamenn gert sér ljóst að núverandi forystumenn félagsins stríða gegn því að krafan um lífvænleg laun fyrir dagvinnu nái fram að ganga. Fyrir síðustu kjarasamninga var tillaga borin fram í félaginu um að barist yrði fyrir lífvænlegum dagvinnulaunum, og lét formaður félagsins ekki svo lítið sem telja þau atkvæði sem studdu hana er sýnt var að hún hefði meirihlutafylgi. Aðrar tillögur sem fjölmennir félagsfundir .

Framhald á síðu 2

*Ragnar Baldursson skrifar frá Kína*

# Kenningin um þrjá heima

ÁGREININGURINN MILLI KÍNVERJA OG ALBANA

Í heimshreyfingu kommúnista stendur nú yfir all víðtæk umræða og deilur um það ástand sem nú ríkir í heiminum og stjórnlist og aðferðir þær sem kommunistum ber að beita á baráttu sinni gegn afturhaldi og heimsvaldastefnu og fyrir byltingu og þjóðfrelsi Sérstaklega hefur þessi umræða staðið um réttmæti skilgreiningar Maós um skiptingu heimsins í þrjá heima þ.e. : 1. heiminn, sem eru risaveldin tvö, höfuðóvinir mannkynsins sem berjast sín í millum fyrir heimsyfirráðum, þar sem Sovétríkin eru í sókn en Bandaríkin í varnarstöðu; 2. heiminn, sem eru minniháttar heimsvaldaríki sem styðja flest annað hvort risaveldið, en standa um leið í ákveðinni mótsetningu við þau, sem gerir þau að mögulegum skilyrðisbundnum bandamanni í baráttunni gegn risaveldunum og þá sér í lagi gegn sósíalheimsvaldastefnunni; 3. heiminum tilheyra svo öll þau ríki sem kúguð eru af heimsvaldastefnunni, eða standa í baráttu gegn henni, þ.e. nýlendur, hálfnýlendur, háð lönd og sósíalísku löndin.

Þrír heimar og utanríkisstefna Kínverja.

Innan heimshreyfingar kommúnista hafa Kínverjar fyrst og fremst fært þessa kenningu fram í starf, þó svo að marx-lenínistar í flestum löndum hafi tekið hana upp í meira eða minna mæli. Hafa Kínverjar í utanríkisstefnu sinni lagt æ ríkari áherslu á að reyna að einangra risaveldin og styrkja þau öfl sem eru andsnúin þeim. Sérstaklega hafa Kínverjar lagt mikla áherslu á að reyna að hefta eða a.m.k. tefja framsókn sósíalheimsvaldastefnunnar sem ógnar mannkyninu með nýrri heimsstyrjöld. Í samræmi við þessa stefnu hafa Kínverjar reynt að efla einingu og samheldni þriðja heimsins sem mikilvægasta aflið í þessari baráttu. Ennfremur hafa þeir lýst yfir stuðningi við td. Efnahagsbandalag Evrópu, enda táknar það tilraun stórborgarastéttar annars heimsins til að standa saman fyrir eigin efnahagslegum hagsmunum gegn yfirgangi risaveldanna. (Á sama tíma benda Kínverjar á sjálfsögðu á að verkefni marx-lenínista í þessum löndum er eftir sem áður fyrst og fremst að berjast gegn eigin borgarastétt og þá sérstaklega stórborgarastéttinni sem í flestum löndum Evrópu er einmitt aflið bak við EBE).

Sameining gegn hættulegasta óvininum.

Þannig reyna Kínverskir kommúnistar í samræmi við marx-lenínismann að sameina alla krafta sem hægt er að sameina í baráttunni

Framhald á síðu 3

LEIÐARI

# Verkfallsvopnið og BSRB.

Tveggja vikna verkfalli BSRB hefur nú verið aflýst og nú liggur fyrir tillaga að samkomulagi, sem allsherjaatkvæðagreiðsla mun skera úr um hvort verða mun kjarasamningur BSRB-manna næstu tvö árin eða ekki. Þetta verkfall er að mörgu leyti nokkuð sérstætt, kannski sérstaklega vegna þess mikla áróðurs sem hafður hefur verið í frammi gegn því. Þó verkfallið hafi verið frekar stutt og ekki náð til mjög mikils fjölda hafði það mikil áhrif meðan það stóð yfir. Mogginn og hægripressan hafa sjaldan lagt jafn mikið kapp á að berjast gegn nokkru verkfalli. Að nokkru leyti er skýring á því sú að nú gátu þeir ekki notað ríkisfjölmiðlana til áróðurs eins og oft áður þegar almenn Verkalýðsfélög hafa átt í verkföllum. Hins ber þó líka að gæta að þetta er í fyrsta skipti sem BSRB hefur verkfallsrétt og íhaldinu hefur því fundist rétt að beita sér að fullri hörku gegn þeim til að hræða þá frá að nota hann í framtíðinni. Hvort þessi áætlun hafi tekist að einhverju leyti skal ósagt látið, en alla vega tókst þeim að sundra samstöðunni og veikja til muna þá góðu samstöðu sem var í upphafi verkfallsins. Það var ekki megin markmið íhaldsaflanna að koma í veg fyrir kjarabætur til handa BSRB heldur hitt að sýna fram á, að verkfallsvopnið væri einskis nýtt. Baráttan gegn BSRB gekk fyrst og fremst út á að sverta verkfallið sem vopn í kjarabaráttu launþega.

Það átti að sýna fram á að það væri fullt eins gott fyrir launþega að ganga strax að þeim tilboðum sem atvinnurekendur byðu, án verkfalls. Til að sanna þetta átti að láta St.Rv. semja án verkfalls og síðan að neyða BSRB til svipaðra samninga þrátt fyrir verkfallið. Þetta mistókst gjörsamlega og svik stjórnar St.Rv. urðu ekki til annars en að sannfæra enn fleiri um gildi verkfallsvopnsins í kjarabaráttunni. Til að sanna svik stjórnar St.Rv og samvinnu þeirra og íhaldsins þarf ekki annað en benda á að samninganefnd Reykjavíkurborgar gekk einfaldlega að öllum kröfum St.Rv. strax.

Með þessa samninga að vopni átti síðan að koma verkfallsfólki BSRB á kné. Þetta tókst ekki og vopnin hafa nú snúist í höndum auðvaldsins og félagar BSRB hafa aflað sér dýrmætrar reynslu um mikilvægi baráttunnar.

Sú tillaga að samkomulagi sem nú liggur fyrir er langt frá því að vera viðunandi. Þar kemur margt til sérstaklega ber þó að geta þess að lægstu launin hækka allt of lítið og eru enn langt frá því að geta talist nokkrar verulegar kjarabætur. Þrátt fyrir að um helmingur félagsmanna sé í fyrstu 10 launaflokkunum kemur minnsta krónutöluhækkunin á þessa launaflokka, svipað og í Reykjavíkursamningunum. Þó ekki væri nema vegna þessa atriðis verður að telja samkomulagið óviðunandi, en það eru fleiri atriði í þessum nauðungarsamningum sem verður að mótmæla. Eins og marg oft hefur verið bent á þá gerir samkomulagið ekki ráð fyrir þeim sjálfsögðu réttindum að BSRB fái að endurskoða samkomulagið ef ríkið tekur vísitöluna úr sambandi eða á annan hátt skerðir kjör ríkisstarfsmanna!. Þetta eru tvö mikilvægustu atriðin sem gera það nauðsynlegt að félagar BSRB felli þetta samkomulag og berjist fyrir verulega betra samkomulagi. Ef félagar BSRB ætla að geta lifað af dagvinnunni einni verður að ná mun betri samningum, sem gera ráð fyrir því að hægt sé að halda því sem náðst hefur meðan samkomulagið gildir. Ef þetta samkomulag verður eikki fellt í allsherjaratkvæðagreiðslunni mun óánægja félaga BSRB vonandi koma skýrt í ljós með því að það verði aðeins samþykkt með naumum meirihluta.

Á þann hátt myndu félagar BSRB láta í ljós óánægju sína með þessa nauðungarsamninga og eins hitt að þeir eru alls ódeigir við að halda baráttunni áfram.

# BSRB: Fellum samningana

framh.af forsíðu.

nema lagabreyting kæmi til.

Og er verkfallið hafði staðið í 10 daga kom Baldur Sveinsson stjórnarmaður í LSFK og fulltrúi í samninganefndinni fram með þá skoðun sína á fundi með kennurum að "það eina sem stæði í vegi fyrir samningunum væri óbilgirni forystumanna BSRB sem neituðu að slá að kröfunum og skrifa strax undir". Vildi Baldur að þeir yrðu þegar fjarlægðir úr samninganefnd BSRB og aðrir settir í staðinn sem væru samningslipr-ari við ríkisvaldið. Þær undirtektir sem þessi málflutningur fékk svo og svör allra andmælenda hans sýndu þó að meginþorri fundarmanna var á öndverðri skoðun og hafði aðrar ásakanir á hendur samninganefnd sinni en að hún hefði slegið of lítið af upphaflegu kröfunum.

Það má hins vegar telja öruggt að slíkar skoðanir sem þeir Baldur og Ólafur settu fram á fundum með félögum sínum hafa verið vel séðar hjá fulltrúum ríkisins. Þeir vissu sem var að ef samningarnir yrðu dregnir á langinn mundu slíkar raddir færast í aukana og einhugur verkfallsmanna kynni að bresta. Það kom einnig á daginn. Úrtölur stéttsvikaranna, svikasamningar Reykjavíkurforystunnar og stöðugar hótanir ríkisvaldsins um að biðja um nýja sáttatillögu (sem hefði örugglega lengt verkfallið um a.m.k. viku án þess að nokkur vissa væri fyrir því að hún færði BSRB neina ávinninga), þetta ásamt hörku fulltrúa ríkisins í samninganefndinni sem hvikuðu varla frá Reykjavíkursamningum varð til þess að 29 af 37 fulltrúum í samninganefnd BSRB samþykktu að skrifað yrði undir samninga án þess að meginkröfurnar hefðu náð fram að ganga.

Fellum samningana.

Í verkfallinu sannaðist það, sem svo oft áður, að fjöldinn er fúsari til baráttu og til að leggja eitthvað á sig til að vinna sigra, heldur en samningamennirnir. Harðorðar samþykktir félagsfunda um að fast skuli staðið við kröfuna um endurskoðunarrétt, svo og fjöldastaðan fyrir utan háskólann sýna það glöggt. Þó svo að þessir samningar, sem allsherjaratkvæðagreiðsla verður um 9. og 10. nóv. n.k. séu skömminni skárri en Reykjavíkursamkomulagið (og það eru þeir vissulega þótt það verði ekki rakið hér), þá er það ljóst að við eigum að geta náð betri samningum. (Ef við beitum leið baráttunnar og upprætum undansláttarmennina úr eigin röðum) Samningum þar sem gengið væri að kröfunni um verkfallsrétt á samningstímabilinu. Til að undirstrika það fellum við samningana nú í allsherjaratkvæðagreiðslunni.

# Um hvað er tekist á innan verkalýðshreyfingarinnar?

framh.af forsíðu.

hafa samþykkt eru hunsaðar af stjórninni. 21. nóv. á síðasta ári samþykkti þorri fundarmanna í Dagsbrún að krafan um 40 stunda vinnuviku á lífvænlegum launum, væri það sem félagið ætti að berjast fyrir. 100 þús. króna krafa ASÍ - þingsins er kom fram í desember það sama ár, var langt undir því marki, enda þurfti verkamannafjölskyldan hátt í 150 þúsund krónur sér til framfærslu á þessum tíma, og er þá miðað við vísitölufjölskyldu hagstofustjóra. Til að efla stéttvísi verkamanna, samþykkti fjölmennur Dagsbrúnarfundur, sem var fyrir ári síðan, að gefið yrði út félagsblað sem opið væri verkamönnum til að tjá skoðanir sínar í. Þetta blað hefur ekki séð dagsins ljós, enda vill stjórnin í félaginu vera einráð um stefnu þess. Fyrir bragðið hafa stéttvísir félagsmenn gefið út 7 tölublöð af Dagsbrúnarverkamanninum á kostnað þeirra stéttvísu verkamanna sem vilja að mikilvæg baráttumál verkalýðsins sigri. Verkamenn verða að gera sér ljóst að það skilar engum árangri að þrýsta á forystu Dagsbrúnar með því að samþykkja tillögur á fundum, né heldur að safna undirskriftum til að fá óréttláta samninga afnumda. Það skilar engum árangri, það hefur engin breyting orðið á starfsháttum og stefnu stjórnarinnar í okkar málum. Það eina sem gildir er að mynda samtök um lista til að fella stjórnina. Fyrr verður ekki um breytingar að ræða, þrátt fyrir fundarsamþykktir og undirskriftasafnanir. Slíkt framboð yrði að vera vel ígrundað og njóta víðtæks stuðnings á vinnustöðunum, því án víðtæks stuðnings verkamanna yrði framboð aðeins upphlaup fárra einstaklinga. Undirbúning verður því að hefja mjög fljótlega ef vel á til að takast. Hundruð verkamanna í Dagsbrún eru orðnir langþreyttir á starfsháttum núverandi stjórnar, sem birtist helst í starfsleysi hvað varðar félagsmálin og baráttuleysi í hagsmuna- og pólitísku baráttunni. Sá eldmóður sem einkenndi Dagsbrún hér fyrr á árum, og gerði það að verkum að önnur verkalýðsfélög fylgdu gjarnan fordæmi þess má ekki slokkna því verða þeir sem vilja framtíð verkalýðshreyfingarinnar vel að styðja það framfarasinnaða er kemur fram í félaginu af alefli.



Fundur í Dagsbrún.

Framhald af baksíðu

Skattarnir og kauphækkanir BSRB.

anna meðal launafólks, baráttan stendur um hversu miklum hluta af verðmætasköpuninni verkafólki tekst að ná frá arðræningjunum þegar það á í kjarabaráttu. Atvinnurekendur viðurkenna ekki að þeir byggi tilvist sína á því að arðræna verkalýðinn, þess vegna er þeim og málsvörum þeirra sem ráða ríkisvaldinu í mun að sundra vinnandi fólki með kenningu um að þjóðarframleiðslan sé til skiptana milli hinna ýmsu hópa í þjóðfélaginu. Síðan eigum við vinnandi fólk að slást innbyrðis, og hafi hver sem betur getur. Kjarabarátta vinnandi fólks verður því ekki til þess að aðrir stéttabræður fái minna, heldur verður gróði auðmanna minni. Þess vegna skulum við félagsmenn í verkalýðshreyfingunni virða rétt stéttarbræðra okkar í BSRB til að berjast fyrir betri kjörum og varast sundrungar áróður borgarastéttarinnar sem drottnar er við deilum innbyrðis.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.

● Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi,

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

Laugarvatn: Einar Jónsson Menntaskólanum Laugarvatni.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v. 444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

*Ragnar Baldursson skrifar frá Kína*

# Kenningin um þrjá heima

**framh.af forsíðu.**

gegn hættulegasta óvininum. Þetta þýðir samt sem áður á engan hátt að tilveru annarra óvina sé gleymt. Kínverjar gera sér t.d. engar grillur um að andstaða stórborgarastéttar annars heimsins sé í mótsetningu við risaveldin vegna þess að hún "sé framsýn" eða "beri hagsmuni alþýðunnar fyrir brjósti" þvert á móti gera kínverjar sér fulla grein fyrir afturhaldssömu eðli þessarar stéttar og tvístíganda hennar. Reynslan af stórborgarastétt Frakklands, Danmerkur, Noregs o.s.frv. úr seinni heimsstyrjöldinni er meirihluti einokunarauðvaldsins guggnaði fyrir þýska nasismanum og gerðust landráðamenn, sýnir okkur að við getum aldrei treyst stórborgurum landa okkar til að standa vörð um sjálfstæði þeirra sé gróða þeirra ógnað. En sú staðreynd, að í baráttunni gegn fasismanum sem þá var hættulegasti óvinur mannkynsins tókst Ráðstjórnarríkjunum (sem þá voru sósíalísk) að koma á andfasísku bandalagi sem náði ekki bara til verkalýðs og kúgaðra þjóða heimsins (t.d. í Kína) heldur einnig til stórborgarastéttar auðvaldsríkja e.o. Bretlands, Bandaríkjanna og að hluta til Frakklands, sýnir að ekki er aðeins tilraun Kína til að koma á bandalagi með 2. heiminum gegn risaveldunum og stríðsfyrirætlunum þeirra möguleg, heldur bráðnauðsynlegur hluti af undirbúningi undir nýja heimsstyrjöld, sem ýmislegt bendir til að sé nú óumflýjanleg.

Það er ennfremur staðreynd sem lítil hætta er að kínverjar, sem börðust áratugum saman gegn handbendum heimsvaldastefnunnar innan síns eigin lands, gleymi, að innan þriðja heimsins eru öfl sem í raun og veru eru handbendi heimsvaldastefnunnar og risaveldanna og byggja tilveru sína á stuðningi þeirra. Nægir þar að nefna t.d. Angola og Chile, en þetta er reyndar nokkuð almennt einkenni á hinni nýju nýlendustefnu sem heimsvaldastefnan stendur fyrir; Hún kaupir upp efnahagslega ákveðin öfl innan nýlendnanna og styrkir þau til valda en þau gjalda svo greiðann aftur með efnahagslegum tilhliðrunum og undirgefni gagnvart viðkomandi heimsveldi. Gagnrýnendum þriggja heima kenningarinnar láist hins vegar að geta að barátta gegn risaveldunum kippir óhjákvæmilega grundvellinum undan tilveru þessara afturhaldsafla þar sem þau eru háð þeim um tilveru sína.

**Barátta alþýðunnar mikilvægust.**

Því má heldur ekki gleyma að kínverskir kommúnistar hafa alla tíð lagt áherslu á að það er alþýðan sem skapar söguna og stendur að baki öllum miklum þjóðfélagsbreytingum, þannig er það fyrst og fremst alþýða 3. heimsins, 2. heimsins, og risaveldanna sem undir leiðsögn öreigalýðs heimsins og þá fyrst og fremst undir leiðsögn sterkasta, ákveðnasta og framsýnasta hluta hans, Kommúnistaflokks Kína sem myndar höfuðlið baráttunnar gegn risaveldunum sem í dag er lykilhlekkur hinnar sósíalísku heimsbyltingar (með öðrum orðum risaveldin eru höfuðhindrunin í vegi sósíalískrar heimsbyltingar). Íslenskir kommúnistar verða því í baráttunni gegn risaveldunum að leggja höfuðáherslu á uppbygginguna sterkrar andheimsvaldasinnaðrar samfylkingu.

Því ber ekki að neita að innan heimshreyfingar marxlenínista hefur komið fram nokkur andstaða og tvístígandaháttur í afstöðunni til þriggja heima kenningarinnar. Á sama hátt og hlutheimurinn þróast eftir leiðum stökkbreytinga og mótsetninga þá þróast þekking okkar á honum eftir leiðum baráttu og mótsetninga; þannig er einnig með þjóðfélagsþróunina hún er ekki jöfn og stöðug heldur fer hún fram í baráttu milli andstæðna og í stökkum, þetta gildir einnig um þekkingu okkar á þjóðfélaginu og breytingum þess. Því er það er við rannsökum kapitalismann þá komumst við að því að hann er ekki staðnað fyrirbæri heldur inniheldur hann fjölda mótsetninga sem eiga í stöðugri baráttu sín á milli og skipta stöðugt sessi ójafnrar þróunar og stöðugra breytinga auðvaldsþjóðfélagsins og breytingu á kraftahlutföllum innan hins kapítalíska heims. Sem afleiðing af þessari ójöfnu þróun auðvaldsheimsins og stökkbreytingum í kraftahlutföllum innan hans þá þróast þekkingin á auðvaldsheiminum og breytingum hans einnig eftir líðum baráttu og stökkum. Það er því ekki nema eðlilegt að við uppkomu risaveldanna, fasistiseringu Sovétríkjanna og aukna hættu á heimsstyrjöld og fleiri þeim breytingum sem orðið hafa á heimsástandinu síðan við seinni heimsstyrjöld þá komi fram mismunandi afstöður og skoðanir til þess í hverju þessar breytingar séu í raun og veru fólgnar og hvaða verkefni þær setji kommúnistum. Réttar skoðanir koma aldrei fram nema í baráttu við rangar skoðanir.



Alþýða Vietnam fagnar frelsishersveitunum í Cam Ranh, í maí 1975.

**Gagnrýni Albana á þriggja heima kenningunni.**

Innan heimshreyfingar marxlenínista hefur flokkur Vinnunnar í Albaníu staðið í fararbroddi þeirra kommúnista sem andæft hafa kenningunni um 3 heima. Á sama tíma og við hljótum að vísa á bug róg borgarablaðanna um "vinslit" Albaníu og Kína, þá verðum við að viðurkenna að þessi klofningur hinnar kommúnísku hreyfingar er all alvarlegur. Í leiðara albanska blaðsins "Zeri Popullit" (sem er málgagn FVA) 7. júlí s.l. segir m.a. að kenningin um þrjá heima sé "andlenínísk", "hylji stéttamótsetningar og stéttabaráttu", "lækki almenna meðvitund öreigastéttarinnar", osfrv. osfrv. Þessi harðorða gagnrýni Albana og sú ásökun þeirra að Kínverjar fylgji stefnu í utanríkismálum sem sé grundvallarlega andstæð marx-lenínismanum er þess eðlis að marx-lenínistar um allan heim verða að taka hana til gagngerðrar umræðu og gagnrýni. Í samræmi við það mat hefur Kommúnistaflokkur Kína sent gagnrýnina til allra flokksfélaga svo að þeir geti rætt hana og tekið afstöðu til hennar.



Ragnar Baldursson

**Samskipti Kína og Albaníu eðlileg.**

Þó svo að þessi gagnrýni Albana á utanríkisstefnu Kína sé jafn alvarleg og tilvitnanirnar hér að framan sýna þá eru samskipti þessara tveggja sósíalísku ríkja með fullkomlega eðlilegu móti enda hafa þau alltaf verið byggð á jafnréttisgrundvelli, svo sem samskipti sósíalískra ríkja sín í milli hljóta alltaf að vera. Allar flugusagnir um að albanskir nemendur hafi t.d. verið kallaðir frá námi eru fjarstæða og eiga ekki við nein rök að styðjast, fréttum að kínverskir sérfræðingar hafi verið reknir burt frá Albaníu hefur sömuleiðis verið neitað af báðum aðilum, og svo mætti halda áfram að telja.



*...í stuttu máli*

**Stríðsskuldir Egypta við sovét**

Nýlega lýstu Egyptar því yfir að þeir myndu ekki greiða neitt af stríðs- og verslunarskuldum sínum við Sovétmenn næstu 10 árin. Það væri regla að endurgreiðsla stríðsskulda ætti ekki að fara fram fyrr en uppbyggingunni væri lokið Egiptar hafa m.a. ekki lokið viðgerð á Súez-skurðinum sem stórskemmdist í stríðinu 1967.

Það er fordæmi fyrir frestun á greiðslu stríðsskulda. Í síðari heimsstyrjöldinni fengu Sovétmenn 11.100 milljón dala lán í Bandaríkjunum. Árið 1972 var svo um það samið á milli landanna að Sovétmenn þyrftu einungis að greiða 10% af þessari upphæð fram til ársins 2001. Það sýnist því sanngjarnt að Sovétmenn veiti Egyptum góð kjör varðandi greiðslu á stríðsskuldum.

En hvort Sovétmenn verða samningaliprir við Egypta er þó ekki víst.

Að auki má benda á það að þeir efnahagsörðugleikar sem Egyptar eiga nú í, eru að verulegu leiti Sovétríkjunum að kenna vegna óhagstæðra viðskiptakjara á síðustu árum. Sovétmenn hafa þar að auki notið ýmiss konar hagræðis af hálfu Egypta, svo sem flotaaðstöðu í egypskum höfnum.

(Heimild: Peking Review, nr 41, 1977)

— o —

**Kampuchea brauðfæðir sig**

Eftir frelsunina í apríl 1975 skipulagði kommúnistaflokkur Kampucheu (KFK) áætlun um endurreisn landbúnaðarins og sér í lagi hrísgrjónaræktarinnar. Skortur á vinnuafli í sveitum leystist skjótt með þeim hætti að fjöldi fólks fluttist úr borgum út í sveitirnar. Nautgriparækt var einnig aukin eftir megni. Nú er yfir ein milljón nautgripa í landinu og hálf milljón buffala. Einnig má nefna að mikill fjöldi landbúnaðaráhalda hefur verið búinn til úr ónýtum stríðstólum.

KFK hefur einnig gert átak í því að koma upp samvinnurekstri í landbúnaðinum. Hafist var handa jafn óðum og landið var frelsað úr höndum heimsvaldasinnanna, en sem kunnugt er var mestur hluti landsins frelsaður löngu áður en höfuðborgin Pnom-Penh, náðist.

Nú er um þriðjungur hins ræktaða lands ræstur fram. Árið 1976 fékkst tvöföld uppskera af tíunda hluta hrísgrjónanna. Kampuchea brauðfæðir nú íbúa sína, um 8 milljónir manna, og flytur þar að auki út eitthvað af matvælum.



Bændafólk í Kambódíu við kornþreskingu.

Framhald af baksíðu.

# Eiturmorð - daglegt brauð kapitalismanum

sett er í Tekomatorp í Suður Svíþjóð. Þar hefur mikill hluti íbúa þorpsins þjáðst af einkennilegum sjúkdómum í mörg ár og þrátt fyrir ítrekaðar kröfur um rannsóknir á starfsemi verksmiðjunnar, hafa yfirvöld algjörlega daufheyrst ,þar til nýlega, er afhjúpað var að mikið magn tunna með dioxíni lágu grafnar í jörðu umhverfis verksmiðjuna. Eiturefnið er hið sama og olli hörmungunum í Seveso. Forstjóri fyrirtækisins hefur nú verið handtekinn og allt bendir til þess að yfirvöld í Tecomatorp, sem og eigendur verksmiðjunnar, komi allri sök á hann einan, en sleppi sjálfir undan refsingu. Eiturefni í umhverfi og framleiðslu eru ekki nýir hlutir fyrir verkalýðinn. Það sem gerst hefur er stóraukning efnaframleiðslunnar og nýjar rannsóknir á efnum sem áður voru álitin óskaðleg. Þess vegna er eitrun af völdum ýmsra efna í framleiðslu og umhverfi í sviðsljósinu núna.

**Eiturbyrlanir íslenska auðvaldsins.**

Mengun af völdum Álversins í Straumsvík er viðurkennd staðreynd. En það er ekki einungis lífríkið í hafinu úti fyrir og jarðvatnið umhverfis sem er í hættu. Verkafólkið hættir á eitranir af völdum framleiðslunnar og þegar heir orðið vart atvinnusjúkdóma, sem þekktir eru í álverum erlendis. Alvarlegastur þessara sjúkdóma er svo kallað "Steinlunga" sem einnig er algengur sjúkdómur meðal námuverkamanna. Fyrir fáum árum kvartaði verkamaður undan lungnasjúkdómi sem hann taldi sig hafa fengið í Álverinu. Læknir fyrirtækisins kom með þá skýringu, að hann hefði ofnæmi fyrir teppinu heima hjá sér. Nú duga engar slíkar afsakanir. En þetta dæmi sýnir aðeins að læknirinn er samsekur forráðamönnum íslenska álversins í glæpsamlegri vanrækslu þeirra á heilsugæslu meðal starfsmanna álversins. Og þótt Álverið hafi sérstaklega verið í sviðsljósinu þegar talað er um mengun á Íslandi, er vert að minnast þess, að í mörgum verksmiðjum er lífi og heilsu verkafólksins og íbúa nágrennisins stefnt í voða. Má þar nefna Áburðarverksmiðjuna í Gufunesi, ýmis fyrirtæki sem annast bílalökkun og járnsuðu.

**Eitur í fæðu og meðulum.**

En þar með er ekki allt upptalið. Hvað eftir annað hefur verið sýnt fram á að ýmsar fæðutegundir innihalda eiturefni, krabbameinsvaldandi efni og önnur skaðleg efni. Nægir að minnast hér á ýmis litarefni í sultu, tómatssósu o.fl., sem vísindamenn telja krabbameinsvald. Þessi litarefni hafa verið bönnuð í Danmörku og víðast er framleiðendum gert skylt að skýra frá efnasamsetningu fæðunnar á umbúðum hennar. Hér eru þessi efni enn í notkun og sjaldnast er hirt um að geta innihalds fæðunnar á umbúðunum. Eituráhrif af völdum meðala þarf varla að fjölyrða um, svo þekktar eru uggvænlegar afleiðingar af mörgum algengum lyfjum. Þúsundir barna fæddust vansköpuð í lok 6. áratugsins, af völdum lyfsins Thalidomid sem gefið var þunguðum konum í stórum stíl. Nú nýlega kom í ljós að magalyf sem seld eru án lyfseðils (Entero-vioform) hafa orsakað magnleysi og tæringu meðal neytenda þess. Eiturbyrlanir og eiturmorð eru framkvæmd í stórum stíl í auðvaldsþjóðfélaginu. Ábyrgðin er atvinnurekendanna - og sú ábyrgð er þung.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.

38. tbl. 1/11 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Hryðjverkamenn

Eftir að V-þýska iðnjöfrinum og. formanni atvinnurekendasambands V-Þýskalands, Hans Martin Schleyer var rænt á dögunum, hefur gripið um sig móðursýki víða um lönd. Í V-Þýskalandi hefur Willy Brandt, Heinrich Böll og fleirum verið borið á brýn stuðningur og jafnvel samstarf með Baader Meinhof hópnum, eða Deild Rauða hersins, eins og þeir kalla sig. Í Danmörku hefur Mogens Glistrup krafist dauðadóms við hryðjuverkum og í öðrum löndum hafa viðbrögðin verið svipuð. Ekki varð aðgerð japönsku skæruliðanna í Bangla Desh til þess að minnka ótta borgarastéttarinnar, sem allt í einu stóð berskjölduð gagnvart aðgerðum "hryðjuverkamanna". En eru þetta einu hryðjuverkin sem framin eru? Og hverjar verða afleiðingarnar fyrir verkalýðsstéttina?

Hótanir um hryðjuverk á Íslandi.

Enn hafa "vinstri sinnaðir hryðjuverkamenn" ekki látið að sér kveða á Íslandi. Samt sem áður verður ekki annað sagt, en að hótanir um hryðjuverk séu hafðar í frammi hérlendis. Þegar atvinnurekendur hóta verkafólki uppsögnum og brottrekstri af þeim sökum einum að þeir græða ekki nægilega á vinnu þeirra, getur engum dulist að þar er á ferðinni hótun sem verkafólk stendur varnarlítið gagnvart. Frystihúseigendur lokuðu frystihúsunum fyrir skömmu og hótuðu verkafólki sínu með atvinnuleysi, ef gróði atvinnurekenda yrði ekki aukinn. Hvað merkir slík hótun? Hún merkir að atvinnurekendur notfæra sér völd sín til þess að þvinga fjölda fólks til þess að lifa undir framfærslulágmarki, vinna of langan vinnudag og starfa við lífshættuleg skilyrði. Atvinnuleysið og óöryggið er fylgifiskur auðvaldsskipulagsins. Það hefur í för með sér skort og jafnvel hungur fyrir verkafólk. Og þegar hótanir um brottrekstra og uppsagnir eru hafðar í frammi gagnvart hundruðum manna, verður það varla kallað annað en hótanir um "hryðjuverk". Í daglegu máli myndi slíkt ekki vera nefnt hryðjuverk, því auðvaldsskipulagið viðurkennir rétt örfárra auðmanna, til þess að svipta hundruð og þúsundir manna atvinnu og lifibrauði sínu að vild. En að steypa fjölda manns út í skort og óöryggi er engu minna hryðjuverk, en að svipta einn atvinnurekenda ferðafrelsi sínu og jafnvel lífi.

Afleiðingar af mannránum "vinstri - hryðjuverkamanna!"

Þegar eftir ránið á Schleyer hafa raddir fasista og afturhaldsmanna um bann við starfssemi kommúnista orðið æ háværari. Hægri flokkarnir í Þýskalandi eru sammála um að banna eigi hina svokölluðu "K" flokka, en það eru 3 flokkar marxista-lenínista - KBW, KPD og KPDm-l. Hins vegar vilja fæstir hægrimanna banna starfssemi Moskvuflokksins "DKP". Þetta er það sem Rauða Herdeildin hefur uppskorið í athöfnum sínum, pólitísk og fagleg skipulagning þýska verkalýðsins sætir bönnum og eftirliti afturhaldsins. Og það er raunverulega besta dæmið um hversu röng starfsstefna Baader-Meinhofs hópsins er. Hann áleit sig kallaðan til að berjast fyrir alþýðu Þýskalands, en hefur kallað yfir hana lögregluofbeldi og afnám lýðræðislegra réttinda. Það sýnir, að það eru ekki fámennir hópar vopnaðra manna sem gera byltinguna, heldur verkalýðsstéttin sjálf. En íslenskir kommúnistar verða að vera á varðbergi gagnvart því, að íslenska auðvaldið fylgi ekki fordæmi þess þýska og banni starfssemi þeirra hérlendis.



Myndin er tekin í Álverinu í Straumsvík.

# Eiturmorð - daglegt brauð kapitalismanum

Fyrr á öldum þóttu eiturbyrlanir hin verstu níðingsverk. Auðvaldsþjóðfélagið hefur gert þær að hversdagslegu hlutskipti fjöldans. Í fjölmörgum verksmiðjum, námum og vinnustöðum er andrúmsloftið svo mettað eiturefnum, að lífi og heilsu verkafólksins er stefnt í voða. Læknum sem ráðnir eru hjá fyrirtækjum undir því yfirskyni að vernda heilsu fjöldans, er oft ætlað það hlutverk eitt, að afsaka og verja eiturmorð atvinnurekenda með "vísindalegum" útskýringum og rökum.

Eiturefni í framleiðslu og iðnaði.

Sprengingin í ítölsku efnaverksmiðjunni í borginni Seveso í fyrra, svipti hulunni af hinum óhugnalegu glæpaverkum atvinnnurekenda í efnaiðnaði. Þá dóu fjölmargir og enn fleiri afskræmdust á hinn hroðalegasta hátt vegna eiturefnisins dioxíns, sem barst út í andrúmsloftið í sprengingunni. Enn í dag heldur eitrið áfram að breiða úr sér og héruð sem áður voru "hrein", verða nú fyrir hryllilegum afleiðingum eitrunarinnar. En Seveso er ekkert einangrað fyrirbrigði. Í fjölmörgum verksmiðjum er eitrunin í andrúmsloftinu svo mikil, að lífi verkafólksins er beinlínis stefnt í bráðan voða. Það er nú sannað, að asbest veldur krabbameini, sem ekki kemur fram fyrr en eftir u.þ.b. 20ár og líkt er þessu farið með fjölmörg önnur efni, sem áður voru álitin óskaðleg. Þýskir kapítalistar ollu miklum úlfaþyt nýlega, er þeir mútuðu læknum til að mæla með því að einvörðungu "gömlum verkamönnum" væri leyft að starfa í vissum efnaverksmiðjum, sem vitað var að ollu krabbameini. Gamlir verkamenn myndu hvort eð er deyja innan 20 ára, eða um líkt leyti og krabbameinið væri að grípa um sig af alefli í líkama þeirra. Og þýska kapítalista skiptir víst litlu máli, hvort launaþrælar þeirra deyja úr "elli" eða krabba, svo lengi sem hægt er að arðræna þá. Annað ferskt dæmi, er danska verksmiðjan BT Kemi, sem stað-

Framhald á síðu 3

# Skattarnir og kauphækkanir BSRB

Félagar í bandalagi starfsmanna ríkis og bæja hafa nýverið fengið nokkrar kjarabætur, eftir harða tveggja vikna verkfallsbaráttu. Undanfarin ár og áratugi hafa stjórnmálamenn sem verið hafa við stjórnvöl ríkisvaldsins unnið að því að fá lykilhópa inn í BSRB, því opinberir starfsmenn höfðu ekki verkfallsrétt. En með tilkomu hins takmarkaða verkfallsréttar hafa stórkapitalistar orðið illa úti eins og sjá má af verkfalli tollvarða. Þau voru orðin 18 vöruflutningaskipin úti á ytri Reykjarvíkurhöfninni undir lok verkfallsins og má nærri geta um tap útgerðarmannanna og heildsala af þeim sökum. Það er því ekki hægt að tala um sparnað þjóðarbúsins vegna verkfallsins, eins og Morgunblaðið og önnur íhaldsblöð reyndu að segja okkur í hita deilunnar. Yfirgnæfandi hluti félaga í BSRB eru láglaunamenn eins og t.d. starfsmenn sjúkrahúsa, starfsmenn pósts og síma, kennarar, lögreglumenn og fl. en aðeins lítill hluti fær laun samkvæmt efstu launatöxtunum. Þetta fólk borgar skatta nákvæmlega eins og verkalýðurinn sem ber uppi þjóðfélagið með verðmætasköpun sinni. Skattarnir eru notaðir til þess að borga þær kauphækkanir sem BSRB náði fram, og má því segja að við félagsmenn í verkalýðshreyfingunni sem vinnum við framleiðsluna borgum brúsann. En það er ekki við opinbera starfsmenn að sakast, þeir vinna störf sem verður að vinna, og þeir þurfa líka að lifa. Meinsemdin er skattakerfið sem stjórnmálamenn hinna auðugu í þjóðfélaginu hafa komið á. Atvinnurekendur, heildsalar og aðrir braskarar eru svo til undanþegnir skatti og nægir að minna á að stærstu fyrirtækin sem hafa miljarða veltu eru tekjuskattslaus og hefur svo verið ár eftir ár. Það erum við launþegarnir sem borgum ríkisútgjöldin af okkar litlu tekjum og með okkar miklu vinnu. Þeir hinir sem hirða stærsta hlutann af þjóðarframleiðslunni, hin fámenna auðmannastétt, lifir við góðan kost og er undanþegin skattinum. Því skulum við félagsmenn í verkalýðshreyfingunni ekki gleypa við þeim áróðri að kjarabarátta BSRB sé til að minnka tekjur okkar, því það eru stjórnmálamennirnir, ráðamenn borgarastéttarinnar sem ráða í skattamálunum og valda óréttlætinu þar. Sama er upp á teningnum þegar litið er á útþenslu ríkisvaldsins eins og t.d. sá ofboðslegi fjöldi ríkislögreglumanna sem nú er, og allavega embættismenn sem gera lítið annað en að þiggja laun. Margs konar fjárfestingar sem skila ekki arði eins og t.d. Þörungavinnslan og Kröfluvirkjun kosta ríkissjóð miklar upphæðir, reyndar margfalt meiri en kauphækkanir félagsmanna BSRB nú. Sú skammsýni sem réði þeim fjárfestingum, er á ábyrgð þeirra stjórnmálamanna sem stóðu harðast gegn eðlilegum og réttlátum kjarabótum til opinberra starfsmanna. Þessir sömu menn segja okkur að þjóðarframleiðslan sé ein stór kaka og ef einn hópur launafólks fái verulegar kauphækkanir verði það til þess að aðrir launþegar fái minni skerf. En þetta er ekki sannleikurinn í málinu, því þótt einn hópur launafólks hafi betri kjör en annar verður það aðeins til þess að minnka gróðahlut atvinnurekenda sem eiga þjóðarframleiðsluna sem við sköpum. Eigendur atvinnutækjanna byggja tilveru sína á því að arðræna vinnandi fólk, og þeir útbýta engri ákveðinni upphæð til skipt-

Framhald á síðu 2

## Stéttabaráttan

Eins og velunarar blaðsins hafa væntanlega orðið varir við hefur ákriftasöfnunin ekki gengið samkvæmt áætlun. Einnig hefur lausasöluaukningin ekki náð því marki sem stefnt var að. Þegar svo er komið sér ritnefnd blaðsins sig knúna til að framlengja herferðinni fram til áramóta í þeirri von að fólk taki sig nú reglulega á og leiðrétti þau mistök sem hér hafa átt sér stað í starfinu. Með samstilltu átaki mun árangurinn ekki láta á sér standa

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357. Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18 .

